Tvisvar í mánuði

# VERKALÝÐSBLAÐIÐ

ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

## Skipuleggið andstöðulið

Sjá bls.3

## Ályktun um alþjóðaástandið

Sjá bls.5

Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista) 14.Tbl. 16.nóv.-30.nóv.1977 100kr.

## 1. des. Komið með í starfið

Stofnfundur Baráttunefndar 1.des. var haldinn 3.nóvember í Norræna húsinu. Var þar haldin framsöguræða um stefnugrundvöll hennar og einnig rætt um nauðsyn þess að verja sjálfsákvörðunarrétt landsins og um sífellt aukin áhrif og ítök erlendra auðhringa í íslensku efnahagslífi, t.d. fjárfestingar í stóriðju á Íslandi. Þessi mál voru og rædd í hópum á fundinum og síðan var gert ráð fyrir niðurstöðum hópumræðna í lok fundar. Kom þar fram að fundarmenn voru einhuga um nauðsyn baráttu á Íslandi gegn ásælni heimsvaldasinna í hvaða mynd sem hún er, sérstaklega var þó nefnd ásælni frá hendi Bandaríkjanna, Sovétríkjanna og Efnahagsbandalagsins.

HVERNIG STARFAÐ FRAM TIL 1.DES?

Starf stuðningsmanna Baráttunefndarinnar fram að 1.des. mun verða tvíþætt. Í fyrsta lagi að kynna nefndina sjálfa og stefnu hennar og í öðru lagi að reka áróður fyrir því að fólk mæti á baráttufund sem nefndin mun gangast fyrir 1.des. Til þess að annast þessi verkefni hafa verið stofnaðir vinnuhópar í skólum og á nokkrum vinnustöðum. Verkefni þeirra er að kynna nefndina og reyna að afla fólks í starfið. Stefnt er að því að halda liðsmannafund 19.nóvember, þar sem stuðningsmenn geta séð hvernig starfið gengur, heyrt um árangur hópanna og fundið nýjar leiðir til að fá fleiri til starfa við að reka áróður. Á fundinum 3.nóv. var kjörin 5 manna aðalstjórn Baráttunefndar 1.des. og er formaður hennar Jón Ísleifsson, Ljárskógum2, sími 76095. Hafið samband og komið með í starfið!

# Tími til kominn fyrir Sóknarstúlkur að rísa upp!



## Rætt við þrjár starfsstúlkur á Kópavogshæli

-Það hefur verið sagt við okkur, að það bitnaði aðeins á saklausu fólki, þ.e. vistmönnum á Kópavogshæli, ef við héldum áfram að berjast fyrir rétti okkar. En við teljum hins vegar að þrátt fyrir að það sé orðin hálfgerð hefð árum saman að troða á starfsstúlkum úr Sókn og ganga á rétt þeirra, þá verði einhvers staðar að byrja og því er það sem við höfum staðið í okkar réttindabaráttu. Hún bitnar ekki á vistfólki og á ekki að gera það, þar sem vistfólk og starfsfólk á í rauninni sameiginlegra hagsmuna að gæta gagnvart ríkisvaldinu.

Frh. á bls.5

Talið frá vinstri: Gerður Oddsdóttir, Ólöf Bjarnadóttir og Jóhanna Jakobsdóttir.
(Mynd:VERKALÝÐSBLAÐIÐ)

BSRB

## Baráttustefna ekki til staðar í samninganefnd

Hvers vegna fóru opinberir starfsmenn í verkfall? Jú, til að knýja fram betri kjarasamning en þann sem fólst í sáttatillögu frá 20. sept. og félagsmenn felldu einhuga. En hvað gerist svo? Samningamenn BSRB, að undanskildum 5 mönnum, setja nöfn sín undir drög að aðalkjarasamningi fyrir opinbera starfsmenn, sem í felst lítil breyting frá sáttatillögunni.

Í þessum drögum að aðalkjarasamningi er ekkert ákvæði sem tryggir endurskoðunarrétt á samningstímanum með verkfallsrétti. Eða eins og segir í drögunum:.."þegar mánuður er liðinn frá því að krafa um endurskoðun kom fram, getur hvor aðili um sig vísað málinu til sáttasemjara og sáttanefndar, er skal þá reyna sættir"...
Launafólkið í landinu veit vel hvað þetta þýðir. Nefnilega það að þær þúsundir sem koma aukreitis í launaumslaginu okkar hafa ekkert að segja í þá verðhækkanahringiðu sem við búum við og verðbólgu, auk þess sem ríkisvaldið notar vísitöluna að vild, til að rýra kjör alþýðunnar í landinu.

Það virðist augljóst að stór hluti samninganefndar BSRB rekur þar alls ekki erindi um-

Frh.á bls.4

## Fullur sigur vannst! í verkfalli á Kópavogshæli



- Það voru vissulega margir vankantar á skipulagi verkfallsins, enda höfum við aldrei staðið í slíku fyrr. En þrátt fyrir að sumt hafi farið úrskeiðis í skipulagningunni, þá er hitt þó mikilvægara, að við unnum sigur og erum reynslunni ríkari, sagði starfsstúlka á barnadeildum Kópavogshælis í samtali við Verkalýðsblaðið

frh. á bls.4

## Kristneshæli við Eyjafjörð: Kaupsvik og mismunun

Ástand á heilsugæslustofnunum er víða lélegt, ríkisvaldið sparar í heilsugæslu á kostnað "óarðbærs" fólks; öldunga og langlegusjúklinga. Ríkisvaldið sparar með því að uppfylla ekki faglegar kröfur og nota ódýrt vinnuafl.

ÓFAGLÆRT FÓLK Í STÖRFUM SJÚKRALIÐA.

Víða er ófaglærður starfskraftur settur í störf sjúkraliða, án tilsagnar að nokkru marki og án kaupuppbótar vegna ábyrgðarinnar. Við starfsstúlkur á Kristneshæli í Eyjafirði höfum verið látnar vinna sjúkraliðaverk svo að segja

frh. á bls.4

VERKALÝÐS-BLAÐIÐ
SAMEINIST!

# Stefnuræða Geirs: AUÐVALDIÐ HEFUR TALAÐ

Tekjuskattshækkun, samdráttur á þjónustu við almenning, uppsögn hluta starfsfólks, m.a. hjá ríkinu, hækkun verðs á "lúxusvöru" - bensíni og tóbaki o.fl. Þetta eru nokkur atriði úr stefnuræðu forsætisráðherra 3.nóv. Ræðan speglaði kreppuástand ísl. auðvaldsþjóðfélagsins og þar kom í ljós að borgarastéttin ætlar enn að herða róðurinn við að velta auðvaldskreppunni yfir á herðar verkafólks.

Líklega fer stefnuræða forsætisráðherra fyrir ofan garð og neðan hjá mjög mörgum úr hópi vinnandi fólks. Menn eru vanir því að allar ríkisstjórnir lofi "aukinni hagsæld", en engin efnir neitt verulegt af loforðunum, því að allar eru ríkisstjórnirnar í þessu þjóðfélagi fulltrúar fyrir auðstéttina.

Í munni ráðherranna er "þjóðarhagur" sama og hagur peningafurstanna.

Í ræðu Geirs voru þessi atriði markverðust:

- Engar veiðiheimildir verða fengnar erlendum aðilum. Rányrkjan verður alíslensk, 320 þús. tonn þorskfisks í stað 275 þús. sem fiskifræðingar töldu hámark. Erlendum aðilum er hins vegar boðið uppá "fiskvernd".
- Verkfall BSRB gekk "of langt" að mati Geirs. Hann boðaði "breytingar" á kjarasamningum. Örlaði þá á grafarraust svartasta afturhaldsins sem vill afnema eða skerða helstu lýðréttindi verkalýðsins.
- Útúr myrkviðum falskra prósentureikninga áttu menn að sjá "velmegun" og sömu rauntekjur og voru hæstar fyrrihluta árs 1974, en "vinstri" stjórnin eyðilagði. Pyngja vinnandi alþýðu segir hins vegar allt annað og sannleikann: - Aukin vinnuþrælkun og versnandi lífskjör.
- Geir hrósaði sér fyrir árangur í baráttu við ólæknandi sjúkdóm auðvaldsins - verðbólguna. Hún hefur minnkað. Hann faldi þá staðreynd að sú lækkun er þvinguð fram með skerðingu lífskjara vinnufólks. Samtímis talaði ráðherrann um "aukningu kaupmáttar". Það var þó greinilega gert til að róa fólk, því slíkt var háð "vonum" um vissar þjóðartekjur ofl.
- Loks boðaði Geir "frjálsræði" í inn- og útflutningi sem tilraun til að aðstoða kreppuhrjáða auðherra.

Það vakti svo athygli að ráðherra sagði ekkert um hermálið, ekkert um erlendu stóriðjuna og ekkert um utanríkismál sem neinu nemur. Ræðan boðaði áframhaldandi árásir á verkalýð og aðra alþýðu.

Í vor verða kosningar. Þá fær fólk kost á að velja á milli lýðskrumara og fulltrúa auðvaldsins, sumra í líki "verkalýðsforingja". Reynslan sýnir að enginn grundvallarmunur er á þessum frambjóðendum. Allir ganga þeir út frá sömu forsendu: Að stjórna skuli arðráns- og yfirgangsþjóðfélaginu sem best - fyrir yfirstéttina. Þessu verður að svara með því að snúa baki við þingflokkunum og taka þátt í eða styðja smíði raunverulegs verkalýðsflokks - kommúnistaflokks.

# „Einangrunarstefnan" og „KFÍ/ml"

Í síðasta tbl. Rauða fánans, fræðirits Stéttabaráttuhópsins ("KFÍ/ML"), birtist kostuleg grein með yfirskriftinni "Sameining eða hvað?". Þar er fjallað um "sjömenningana" svokölluðu eða þá marx-lenínista sem yfirgáfu hið sökkvandi skip KFÍ um síðustu áramót og starfsaðferðir þeirra. Þeirri endaleysu sem þarna birtist skal ekki svarað hér, enda verður það gert á öðrum vettvangi. Það sem hins vegar skal lítillega fjalla um hér, er ásökun um "vaxandi einangrunarhyggju" sem einkenna skal EIK(m-l). Þessi kenning hefur að undanförnu átt miklu fylgi að fagna meðal Stéttabaráttuhópsins og hafa liðsmenn gengið um og útbreytt þessar kenningar sínar. Jafnframt hafa þeir gengið svo langt í

frh. á bls.5

## Samtíningur

margt. Nú er svo komið að eldur hugsjónanna er furðuveikur í landi byltingarinnar: en vonin lifir enn, þeim mun bjartari annars staðar.

Samskipti Íslands og Sovétríkjanna hafa um margt verið með jákvæðum hætti á þessum síðustu áratugum: má þar fremst nefna afstöðu sovétstjórnarinnar til útfærslu landhelginnar í 12 mílur, 50 mílur og 200 mílur. Þá skal minnt á viðskipti landanna með fisk, og ekki síður á

... skal engu spa en fullyrt að þá verði sá kyndill sósíalismans sem kveiktur var fyrir 60 árum enn bjartari en nú í landi októberbyltingarinnar, þá hafi nýjar kynslóðir lyft hugsjóninni

Einingarsamtök kommúnista (marx-lenínista) hafa margoft sýnt fram á að Alþýðubandalagið er ekki sósíalískur flokkur, og það sem verra er: Hann talar máli auðherranna og heimsvaldakeisaranna í Sovétríkjum nútímans.

Hér er gott dæmi um afstöðu AB-forystunnar til Brésneffs og nóta hans.

Svavar Þjóðviljaritstjóri heldur því blákalt fram, að Sovétríkin séu sósíalísk - þótt sósíalisminn sé furðu "veikur" eða "fölur" - á sama tíma og alþýðukúgun utan- og innanlands ber allt öðru vitni. Og svo þorir hann að kalla baráttu Sovétstjórnarinnar gegn útfærslu Íslands í 50 og 200 mílur "jákvæð samskipti".

Við Alþjóðadómstólinn í Haag greiddu Sovétríkin atkvæði gegn ísl. alþýðu og Sovétstjórnin mótmælti formlega 200 mílna útfærslunni. Þar ofan á stunda Sovét-flotar geysilega rányrkju umhverfis Ísland og kaupa héðan fisk á undirmálsverði, landinu til milljarða-skuldasöfnunar.

Svona falsanir ná þó aldrei að fela raunveruleikann til lengdar!

# ÚR STARFINU

EIK(m-l) barst kveðja frá tyrkneskum kommúnistum:

„1.þing RWPPT - Byltingarsinnaði verkamanna- og bændaflokkur Tyrklands - sendir kommúnistaflokkum og öreigum allra landa öreigasinnaðar alþjóðakveðjur. Flokkur okkar er ákveðinn í að halda fána marx-lenínismans - kenninga Mao Tsetungs hátt á lofti í þágu sigurs öreigabyltingar heimsins. ...1.þingið hefur fordæmt einróma tilraunir til að sundra alþjóðahreyfingu kommúnista og þjóna Brésneff-endurskoðunarinnum með því að beina höfuðþunga árásanna að félaga Mao Tsetung.

Niður með Krústjoff-Brésneff endurskoðunarstefnuna!
Lifi marx-lenínisminn - kenningar Mao Tsetungs!
Lengi lifi alþjóðahyggja öreiganna!

1.þing RWPPT"

EIK(m-l) senda Flokki Vinnunnar kveðjur:

Nýlega sendu EIK(m-l) Flokki Vinnunnar og alþýðunni í Albaníu kveðjur sínar í tilefni 36 ára afmælis stofnunar flokksins og 33 ára afmælis frelsunar Albaníu.

## Slæm villa

Afar slæm villa varð í vinnslu greinar um áfengismál í síðasta tbl. Verkalýðsblaðsins. Varð þar orðabrengl í einni málsgrein, sem varð til að gerbreyta merkingu hennar. Á einum stað í greininni stóð: "Á meðan stór hluti verkalýðs notar frítíma sinn til að drekka, þá er stéttarandstæðingnum borgið". Rétt átti setningin að vera á þessa leið: "Á meðan hluti verkalýðs notar stóran hluta frítíma síns til að drekka, þá er stéttarandstæðingnum borgið". Ritnefnd biður lesendur afsökunar á lélegu eftirliti með vinnslu blaðsins, sem hefur í för með að villur eins og sú sem hér er getið komast inn. Slíkt á ekki að geta gerst, ef rétt pólitísk lína ræður í blaðvinnslunni. Við þurfum því enn að bæta okkur!



# BARÁTTUNEFND 1. DES. OG STÚDENTA

Nokkuð hefur borið á tilburðum ákveðinna stúdenta við Háskólann til að sverta Baráttunefnd 1. des. á þeim forsendum að hún "hengi stúdenta út", þ.e. ráðist gegn þeim þjóðfélagshóp sem ekkert framsýnt starf geti unnið. Bera þessir menn fyrir sig að í stefnugrundvelli Baráttunefndar 1. des. sé sagt að stúdentar hafi einokað þennan dag undanfarin ár, og oft rekið ranga pólitík. Það er rétt, að þetta stendur í grundvellinum, en þetta er ekki það sama og að segja að stúdentar geti ekki unnið framsækið starf. Því mælir vart nokkur maður mót, að stúdentar hafa verið einir um að halda 1. des. hátíðlegan undanfarin ár, og að aðgerðir þeirra í tilefni dagsins hafa að verulegu leyti verið einangraðar frá alþýðufólki. Eigum við þá við þá staðreynd, að alþýðan hefur á engan hátt tekið þátt í aðgerðum eða undirbúningi þeirra, heldur í besta falli hlustað á dagskrána í útvarpi. Enda er það svo stærstur hluti dagskrárinnar fer fram á þeim tíma er allur þorri alþýðunnar er til vinnu.

Það er afstaða aðstandenda Baráttunefndar 1. des. að oft hafi verið rekin röng pólitík í hátíðarhöldunum: Aðgerðirnar hafa fjarlægst upprunalegt tilefni, og ekki hefur verið barist gegn báðum risaveldunum þegar dagskráin hefur verið helguð andheimsvaldabaráttunni. Baráttunefnd 1. des. ætlar sér að helga þennan dag baráttunni fyrir verndun sjálfsákvörðunarréttar Íslands - gegn þeim sem honum ógna: Risaveldunum. En Baráttunefndin er ekki í neins konar samkeppni við 1. des.-nefnd stúdenta, né heldur er hún úti eftir að sverta stúdenta, eða ráðast gegn þeim sem þjóðfélagshóp. En nefndin áskilur sér rétt til þess að telja þá sem ekki vilja vernda sjálfsákvörðunarréttinn reka ranga pólitík, og skaðsamlega. Það geta þeir hermt upp á sig sem það eiga skilið, en ættu að láta vera að telja sjálfa sig samnefnara allra stúdenta.

# „Kvenfrelsi" Verðandi
# Borgaraleg viðhorf allsráðandi

"Baráttan fyrir frelsun konunnar beinist ekki aðeins að lausn hennar undan því oki sem núverandi þjóðfélagsgerð hefur lagt á hana - frelsun konunnar felur einnig í sér lausn karlmannsins frá því einhliða hlutverki sem hann gegnir nú".

Framangreind tilvitnun er ekki tekin úr umræðuplaggi í saumaklúbbi Hvatarkerlinga, eins og einhver gæti haldið, heldur úr dreifiriti Verðandi, "vinstri" samsuðu stúdenta í Háskóla Íslands. Verðandi ætlar að þessu sinni að efna til samkomu 1.desember og fjalla um KVENFRELSISBARÁTTUNA! Spurningin er bara: hvað felst í því að "frelsa konuna?" Í þeim dreifiritum Verðandi um málið, sem Verkalýðsblaðinu hefur borist, er ekki að sjá að stéttaskipting auðvaldsþjóðfélagsins nái einnig til kvenna. Þar er alltaf talað um konur sem hóp, sem hafi sömu hagsmuna að gæta. Það er ekki annað að sjá af skrifum Verðandi að "frelsunin" geti komist á strax í auðvaldsþjóðfélaginu; sósíalisminn er óþarfur til að koma jafnréttinu á! Í stuttu máli einkennist málflutningur Verðandi af borgaralegu viðhorfi til jafnréttisbaráttu kynjanna: kvenrembunni (feminisma).

TVÖFÖLD KÚGUN.

Stéttaskipting auðvaldsþjóðfélagsins á jafnt við um karla og konur. Konur í borgarastétt eiga ekki samleið í þeirri baráttu fyrir jafnrétti kynja sem nú ber að efla. Það er einfaldlega vegna þess að það eru konur úr röðum verkalýðs og vinnandi alþýðu sem munu leiða hina raunverulegu jafnréttishreyfingu og sú barátta verður háð með það að leiðarljósi að aðeins með sigri sósíalismans fáist endanlegur sigur. Borgarakonur hafa ekki hag af afnámi auðvaldsskipulagsins, en það segir þó ekki að sumar þeirra búi við einhverja undirokun karlmanna í sinni stétt. Yfirstéttarkonur tala þá gjarnan um að allar konur eigi í baráttu við karlmenn í þjóðfélaginu, stilla sem sagt andstæðum þjóðfélagsins upp sem karlmaður gegn kvenmanni! Þetta felur eðli auðvaldsþjóðfélagsins sjálfs og er afturhaldssamt. Þessi viðhorf eiga sér marga talsmenn úr röðum alþýðufólks, en gegn þeim verður að berjast. Við segjum að leiðin til frelsunar konunnar sé full þátttaka í atvinnu- og þjóðmálum á grundvelli stéttarbaráttu. Enginn frelsar verkakonuna undan kúguninni nema hún sjálf með stétt sinni. Því þurfa konur úr hópi vinnandi alþýðu kvennahreyfingu sem er sjálfstæð, og baráttuaðferð sem miðast við hagsmuni verkakvenna og vinnandi alþýðu. Hagsmunir verkakvenna verða að vera leiðandi í kvennabaráttunni vegna þess að þær ásamt verkamönnum eru í mestri móttstöðu við borgarastéttina. Verkakonur þurfa í raun og veru að þola tvöfalda kúgun: Annars vegar kúgun sem hluti verkalýðsstéttarinnar og hins vegar sem konur. "Það afl sem harðast getur beitt sér í kvenfrelsisbaráttunni og í raun réttri leitt hana til lykta er verkalýðshreyfingin", segir Verðandi. Það vantar ekkert nema að því sé lýst yfir að Alþýðubandalagið og Alþýðuflokkurinn geti líka lagt hönd á plóginn í þingsölum! Nei, kvennahreyfingin verður að byggja á baráttudug kvenna og má ekki treysta þingfulltrúum eða ASÍ-bákninu fyrir baráttu sinni.

Kosningabrölt Verðandi nú og útlistanir á "kvenfrelsinu" afhjúpa enn betur pólitískt gjaldþrot félagsins, sem er samkrull Alþýðubandalagsmanna, Fylkingarfélaga, "KFÍ"-skipbrotsmanna, Alþýðuflokksmanna, Framsóknarmanna og fjölda velmeinandi "vinstri" manna.

## HAFIÐ SAMBAND VIÐ EIK(m-l) OG OKTÓBER FORLAGIÐ

EIK(ml) Akureyri: Hafnarstræti 7). Opið: Þriðjudaga kl.5-7 og föstudaga kl.4-6.
EIK(ml) Reykjavík: Óðins- [illegible] 30. Opið: Miðvikudaga kl.5-7, föstudaga kl.5-7 og laugardaga kl.2-4. Sími 29212. Pósthólf 5186.
EIK(ml) Kaupmannahöfn: Sigrún Ágústsdóttir, Öresundskollegiet, 1-102, Dalslandsgade 8, 2300 København S.
EIK(ml) Osló: Steinunn Hjartardóttir, Schultsgate 7, Osló 3. Sími 69[illegible]50 kl.17-20.30.
EIK(ml) hefur gíróreikning nr. 12 200 - 9.
Á öllum þessum stöðum fæst einnig Verkalýðsblaðið og útgáfuefni Októberforlagsins og EIK(ml).

**gerum verkalýðsfélögin að baráttutækjum**

# „Rauð dula" BSRB-forystunnar dugar ekki

Við BSRB félagar megum ekki láta deigan síga þrátt fyrir að þessir samningar séu harla rýr kjarabót og endurskoðunarrétturinn hafi glutrast niður. Við félagar í BSRB megum ekki í annað sinn láta blekkjast af rauðu dulunni, sem forystan hefur flaggað í verkfallinu og meðan á þessum samningum hefur staðið. Þeim hefur liðist það í þetta sinn, meðal annars vegna þess hve baráttuvitundin er stutt á veg komin meðal almennra félaga.

BSRB er þannig uppbyggt starfsmannafélag að almennir félagar geta verið í því allt sitt líf án þess að hafa komið nær málefnum félagsins en sem því nemur að lesa Ásgarð. Lýðræði er ekki til í BSRB fremur en í ASÍ, svo dæmi sé nefnt.

Forystan hefur verið svo eftirlát við ríkisvaldið að alls staðar þar sem ég hef heyrt félaga ræða saman um samningana fussa þeir og sveia yfir því hvernig hefur verið staðið að málum. Forystan er allt of sáttfús og samvinnufús við andstæðinga okkar; borgarastéttina, sem fer með ríkisvaldið. Þess vegna eru Kristján Thorlacius og co. einnig andstæðingar okkar. Stéttarsamvinnustefna heitir það á góðri íslensku hvernig BSRB-forkólfarnir vinna. Höfuðverkefni okkar BSRB félaga næstu árin er þess vegna að vinna gegn stéttarsamvinnustefnunni.



Atkvæðisgreiðsla BSRB.

(Mynd:VERKALÝÐSBLAÐIÐ)

Hvernig gerum við það?

Nú á meðan á samningunum og verkfallinu stóð hafa fjölmargir félaga stigið fyrstu skrefin í átt til fjöldabaráttu, t.d. hefur aldrei fyrr verið rætt meira manna á milli á vinnustöðunum um kjaramálin, fjölmargir tóku þátt í sjálfboðaliðsstarfinu við kosningarnar og verkfallið; og er íhaldskólfarnir pressuðu í gegn smánarsamningana við Reykjavíkurborg, létu 33% ekki blekkjast af stéttarsamvinnustefnunni en voru tilbúnir til að herða sóknina. Einnig unnu nokkrir félagar Starfsmannafélags Reykjavíkur gott upplýsingastarf með dreifimiðum um innihald smánarsamningsins.

Óhætt er því að segja að mikið hafi lærst mönnum um gagnsleysi stéttasamvinnustefnunnar. En betur má ef duga skal! Við skorum því á baráttufúsa félagsmenn að mynda hópa á vinnustöðunum (hópur getur verið 2-3 menn), sem leitast við að sýna vinnufélögunum sínum fram á nauðsyn þess að berjast gegn stéttarsamvinnustefnunni og afhjúpa hana alls staðar. Á þennan hátt getum við undirbúið okkur undir styrka samstöðu gegn ríkisvaldinu og þjónustulið þeirra í "rauðu samningssparifötunum" sínum, áður en næsta samningslota hefst.

Verkalýðsfréttaritari í BSRB

# Síðdegisblöðin beita sölubörnin hörku

Dagblaðið og Vísir eru í harðri samkeppni sín á milli. Meðal annars eru bæði blöðin seld úti á götum og á gatnamótum af blaðsölubörnum. Söludrengur hafði samband við Verkalýðsblaðið og fer frásögn hans hér á eftir.

Vbl.: Hvað fáið þið mikið fyrir hvert blað?

Söludrengur: Við fáum 16 krónur. Fyrir hver 10 blöð fáum við eitt aukablað. Selji maður meira en 10 blöð fær maður karamellur, fyrir 20 blöð og meira gos, fyrir 30 blöð og meira gos og karamellur og fyrir 40 blöð og meira gos og súkkulaði. Síðan, ef maður selur yfir 50 blöð í 5 daga, fær maður blöðin afhent á undan öðrum beint í prentsmiðjunni eða niður við Pósthús, þá þarf ekki að standa í biðröð eftir blöðunum.

Selji maður 1000 blöð á mánuði eru verðlaunin 1000 krónur á sparisjóðsbók, og réttur til að taka þátt í happadrætti. Vinningarnir eru reiðhjól eða vöruúttekt í Glæsibæ.

Ef einhver fer á nýjan stað eða nýtt hverfi, kemur æ oftar fyrir að maður rekst á annan sem "á hverfið". Sumir fara þá að slást. Svo selja sumir við umferðarljósin. Ég geri það ekki. Það er hættulegt og þar verða oft slys.

Af þessari frásögn blaðasöludrengsins sést mæta vel hin beinharða samkeppni tveggja síðdegisblaða hvort við annað og við önnur blöð. Traustar hersveitir þeirra eru sölubörnin, sem vinna í hvaða veðri sem er, slást um að vera fyrst, slást um svæðin, hlaupandi á milli bíla sem bíða á umferðarljósum. Ákafari sölumenn fyrirfinnast varla. Þar sem kaupið er svo lélegt, sýnast "verðlaunin" mun girnilegri. En "verðlaunin" eru af sama tagi og bónusinn í frystihúsunum: Að fá sem mest út úr starfsfólkinu. Bónus er engin lausn á lélegu kaupi fullorðinna, en Dagblaðið og Vísir svífast einskis og níðast á börnum í æðislegri sókn sinni eftir hærri sölu og meiri gróða. Hver eru réttindi krakkanna? Þau eru engin. Þau eru ráðin uppá einn og einn dag í senn. Þau hafa enga sjúkratryggingu, slysatryggingu eða orlofsfé. Þau tilheyra arðrændum kúguðum verkalýð Íslands.

Krakkar! Myndið með ykkur samtök, samtök blaðasölufólks! Krefjist hærri sölulauna í stað gosdrykkja, karamellna og happadrættis! Krefjist fastra úthlutaðra sölusvæða við afhendingu! Krefjist slysa- og veikinda- og orlofsdagpeninga! Krefjist samningsréttar!

Þið eruð sterk, án ykkar liggja nefnilega blöðin óseld upp á öskuhaugum.

Til baráttu! Með samstöðunni tekst það!

# „MIKILVÆGT AÐ SKIPULEGGJA ANDSTÖÐULIÐ Í VERKALÝÐSFÉLÖGUNUM" -sagði Sigrún Huld Þorgrímsdóttir í ræðu á fundi EIK(m-l)

"Bæði ASÍ og BSRB eru að skipulagi byggð upp sem óvirk skrifræðisbákn. Öll "barátta" á þeirra vegum fer fram innan vinnumálalöggjafar auðvaldsins og bæði stefnumótun og ákvarðanatekt er haldið fjarri verkafólkinu sjálfu. Á síðustu árum hefir miðstýringin aukist mjög hratt. Samflotin illræmdu eru í raun að útrýma sjálfstæðum verkfalls- og samningsrétti hinna einstöku félaga. Með starfsaðferðum sínum gefur ASÍ-forystan grænt ljós á fyrirhugaða breytingu á vinnumálalöggjöfinni verkafólki í óhag".

Framangreind tilvitnun er úr ræðu Sigrúnar Huldar Þorgrímsdóttur, er hún flutti á fundi Einingarsamtaka kommúnista (m-l) í Reykjavík 5.nóvember. Þar voru verkalýðsmál og stefna EIK(m-l) varðandi verkalýðsstarfið til umræðu. Er fundurinn annar í fundarröð EIK(m-l) um ýmiss mál, sem haldnir verða í vetur. (Sá næsti verður 3.des. í húsi Prentarafélagsins við Hverfisgötu og hefst kl. 15.00. Verður þar fjallað um Alþýðulýðveldið Kína).

Sigrún Huld rakti í stuttu máli sögu verkalýðshreyfingarinnar síðustu áratugi og sýndi fram á þróun hennar frá því að vera baráttuhreyfing sem vann stóra sigra á 3.áratugnum og í upphafi þess fjórða, í það að vera skrifstofubákn og hemill á baráttustefnu innan verkalýðsfélaganna. Hún sagði ennfremur að mikilvægt væri að gera sér grein fyrir að efsta lag valdapíramída ASÍ og BSRB tilheyrði ekki lengur verkalýðsstéttinni, heldur væru þeir menn (fámennur hópur) gengnir í raðir óvinarins – borgarastéttarinnar – og sætu nú í nefndum og ráðum með auðmönnum og ráðskuðust með menn og auðmagn. "Það er ekki hægt að laga ástandið með velviljaðri gagnrýni. Baráttu er þörf og hún beinist gegn forystunni", sagði Sigrún.





Sigrún Huld Þorgrímsdóttir flytur ræðu sína.

(Mynd:VERKALÝÐSBLAÐIÐ)

BYGGJUM ANDSTÖÐULIÐ!

Sigrún Huld rakti síðan sögu þeirrar baráttu sem verið hefur til staðar gegn stéttasamvinnustefnu forystu verkalýðshreyfingarinnar og sáttfýsi við atvinnurekendur og ríkisvald. Megi rekja sögu þessa aftur til loka síðasta áratugs, en á þessum áratug megi víða sjá merki um baráttu gegn stéttasamvinnunni, en sporin hafi verið reikul og margar villur gerðar. Andstaðan hefur sveiflast á milli tveggja póla: annars vegar slagorðakenndrar ofurróttækni (sbr. KSML áranna 1971-'75, sem settu fram vígorð eins og "Víkjum verkalýðsfélögunum úr vegi okkar" og "niður með launavinnuna!") en hins vegar sáttfýsi við forystu ASÍ og metorðabrölt (sbr. "órólega deildin" frá ASÍ-þinginu – verkalýðsforingjar úr "vinstri" armi Alþýðubandalagsins og fleiri – sem gegnt höfðu framsæknu hlutverki síðustu ár og á ASÍ-þinginu, en enduðu síðan í allsherjar faðmlögum við ASÍ-forystuna í kjarasamningunum síðustu og reyndu að lita andlit ASÍ rautt 1.maí í vor).

Sigrún Huld svaraði síðan þeirri spurningu, hvernig andstaða gegn stéttasamvinnunni innan verkalýðsfélaganna ætti að starfa og sagði réttu leiðina vera þá að mynda andstöðulið baráttufúss verkafólks innan verkalýðsfélaganna gegn stéttasamvinnunni. Kjörorðið eigi að vera: SAMEINING VERKALÝÐS Á GRUNDVELLI STÉTTARHAGSMUNA – GEGN STÉTTASAMVINNU!

"Frá upphafi verður andstaðan að setja upp réttar kröfur, kröfur sem leiða baráttuna fram á við. Þær þurfa að taka mið af baráttustöðunni og vera þannig að alþýðan vilji berjast fyrir þeim. Aðeins slíkar kröfur eru sigurstranglegar. Kröfurnar í dægurbaráttunni eru mótaðar á grundvelli langtímakrafna, þær eiga að þjóna langtímamarkmiðum. Þannig börðumst við fyrir 115 þús. kr. lágmarkslaunum s.l. vor og gegn samfloti ASÍ-forystunnar á grundvelli baráttunnar gegn stéttasamvinnunni. Pólitísk stefnumótun andstöðuliðsins er forsenda þess, að það geti eflst og barist öflugri baráttu gegn stéttasamvinnunni.

VINNUSTAÐAFUNDIR Í STAÐ DRYKKJUPARTÍA!

Í lok ræðu sinnar sagði Sigrún Huld Þorgrímsdóttir síðan: "Vinnustaðavirkni er nú mjög takmörkuð, og það er nauðsynlegt að hún aukist. Í sólstöðusamningunum var samþykkt heimild til verkafólks um að halda vinnustaðafundi tvisvar á ári. Eftir þessu þarf að ganga. Margir vinnustaðir halda reglulega drykkjupartí – hvernig væri að reyna að halda í staðinn kaffikvöld, e.t.v. með óformlegu rabbi um málefni vinnustaðarins fyrst í stað, og reyna síðan að þróa þetta upp í skipulögð fundarhöld. Margt fleira kemur til greina, en allt er undir því komið að baráttusinninn hafi augu og eyru opin og láti stjórnast af einlægri ósk um að gagnast alþýðunni í baráttu hennar.

Og þrátt fyrir litla virkni dagsins í dag, þrátt fyrir að höfuðverkefnið sé starf í stéttarfélaginu, en ekki á vinnustaðnum, megum við ekki vera hrædd við að taka þátt í og helst að taka forystuna í sérhverju baráttumáli sem upp kemur á vinnustaðnum.

Að lokum: Það er rétt starfsaðferð að byggja upp andstöðulið innan einstakra stéttarfélaga, með sem sterkustum tengslum við mikilvægustu vinnustaðina. Í upphafi verkalýðsmálastarfs EIK(m-l) var það stefna okkar að skipuleggja andstöðuna í liðsmannasamtök utan stéttarfélaga, og að stofna hópana síðan eftir mætti. Þannig tókum við virkan þátt í Baráttusamtökum launafólks á Akureyri og Baráttusamtökum verkafólks, sem stofnuð voru í Rvík ári síðar. Reynslan af þessu starfi varð sú, að starfið við að halda þessum "apparötum gangandi varð sem myllusteinn um háls baráttufúsu fólki, formið hæfði ekki verkefninu. Villa okkar var sú, að við rugluðum saman þörfinni fyrir skipulagslega miðstýringu og pólitíska sameiningu. Séu andstöðuliðin byggð upp á grundvelli sameiginlegrar baráttustefnu gegn stéttasamvinnunni, mun reynast harla auðvelt að leysa vandamál sameiginlegrar skipulagningar, þegar tímar líða og þörf gerist fyrir slíkt, t.d. í fjöldaaðgerðum.

STOFNUN KOMMÚNISTAFLOKKS TÍMASPURSMÁL!

En hvernig verður þessi pólitíska sameinig? Hún verður þannig, að forystuafl verkalýðsstéttarinnar, kommúnistaflokkurinn, setur fram nothæfa baráttustefnu sem andstöðuliðin taka í sína þjónustu. Þetta hlýtur að gerast svona, því hver annar ætti að móta slíka stefnu?

EIK(m-l) eru þau samtök sem hafa sameinað ísl. kommúnista innað raða sinna og stofnun kommúnistaflokksins er aðeins tímaspursmál. Við höfum nú þegar að mestu leyti mótað nothæfa baráttustefnu í starfi okkar að verkalýðsmálum og er nú væntanlegur bæklingur sem inniheldur megindrætti þessarar stefnu. En þátttöku fjöldans er þörf – þess vegna höldum við m.a. þennan fund, og í samræmi við þá fjöldastefnu rými ég nú ræðustólinn með hvatningu til allra fundarmanna um að taka duglega þátt í umræðunum og áframhaldandi starfi!"




lönd vilja sjálfstæði
þjóðir vilja frelsi
alþýðan vill byltingu

# Fyrsta verkfall í sögu grænlensks verkalýðs

Þann 17. október hófu 64 grænlenskir námuverkamenn verkfall í Marmorlik á vesturströnd Grænlands. Það er kanadísk-ættaði auðhringurinn Greenex sem rekur námuvinnsluna, og þar vinna nú u.þ.b. 350 manns, flestir danskir. Allt frá byrjun vinnslunnar árið 1972 voru grænlenskir verkamenn undirborgaðir, og er það í samræmi við nýlendustefnu Dana. Fyrir verkfall fékk grænlenskur verkamaður um 950 kr. á tímann, á sama tíma og erlendur verkamaður fékk 1330 kr. fyrir sömu vinnu. Til þess að ávinna sér þessi sömu launakjör þurfti grænlenskur verkamaður að vinna 2½ ár.

Kröfurnar sem settar voru fram í verkfallinu voru: <u>Sömu kjör og erlendir verkamenn fyrir sömu vinnu.</u> Síðustu fréttir herma, að eftir 14 daga verkfall hafi allar kröfur Grænlendinganna verið uppfylltar.

Landssamband grænlenskra verkamanna (LGV) leiddi verkfallið sem er hið fyrsta í 20 ára sögu sambandsins. Krafa Grænlendinganna var að þeir fengju sömu laun eftir 10 mánaða aðlögunartíma og erlendir verkamenn, en tilboð Greenex hljóðaði upp á sömu laun eftir 2 ár, og að samningar færu fram eftir reglum danska vinnuveitendasambandsins. Ef það hefði verið samþykkt, hefði það orðið stórt skref aftur á bak í undangenginni tveggja ára baráttu LGV fyrir því að losa sig undan áhrifum danska alþýðusambandsins, og að standa á eigin fótum í grænlenskri kjarabaráttu. Jafnframt því að þá hefði verkfallið örugglega verið dæmt ólöglegt.



Þetta er fjallið Svarti engillinn í Marmorlik við Umanakfjörð á vesturströnd Grænlands. Námugröfturinn fer fram inni í fjallinu, 600 m yfir sjávarmáli. Þessi náma annar 10% af blý- og sinkeftirspurn heimsins (Mynd: Arbeideravisen)

Þetta verkfall er því mikilsvert fordæmi fyrir hina ungu baráttu grænlenskrar verkalýðsstéttar.

<u>GREENEX-HRINGURINN STARFAR SAMKVÆMT REGLUM KYNÞÁTTAMISRÉTTIS!</u>

Það er ekkert nýnæmi að Grænlendingar fái lægri laun en Danir á Grænlandi – þrátt fyrir að þeir standi hlið við hlið í sömu vinnu og séu með hliðstæða menntun. Greenex, sem er dótturfyrirtæki risaauðhringsins Cominco í Kanada, hagnýtir sér þetta ástand til hins ýtrasta, og fær fyrir það blessun dönsku nýlenduherranna.

Eftir miklar og ítarlegar rannsóknir kom í ljós, að arðvænlegt var að vinna sink og blý í fjallinu Svarta englinum við Umanak-fjörðinn. Þá gerði Greenex samning við danska ríkið um vinnsluna og námubærinn Marmorlik var byggður upp á örskömmum tíma. Eins konar "gullæði" greip um sig meðal danskra verkamanna, sem dreymdi um skjótfenginn gróða í eyðimerkurbænum, sem í rauninni var ekki annað en vinnubúðir. Þeir skrifuðu undir ráðningarbréf, en eftir mánaðar strit í námunum rann upp fyrir þeim flestum að hinn "skjótfengni gróði" var ekki byggður á góðum launum, heldur á löngum og erfiðum vinnudegi, allt frá 12–15 tímum á sólarhring. Allur aðbúnaður í vinnubúðunum er mjög frumstæður og í byrjun þurftu verkamennirnir að búa í tjöldum – Umanakfjörðurinn liggur nálægt 70. gráðu norðlægrar breiddar.

Í blindri sókn sinni eftir gróða hefur Greenex hunsað allan rétt veiðimannanna sem byggja svæðin í kring. Stór flutningaskip hafa brotið upp ísinn á leið sinni til Marmorlik, og þar með eyðilagt árstíðabundnar veiðar þar. Þá hefur það komið í ljós að úrgangur sá sem verður til við aðskilnað sinks og blýs og sleppt er út í Umanakfjörðinn inniheldur hættuleg eiturefni.

Þetta er ekki eina dæmið sem til er um ógnun fjölþjóðaauðhringa við bæði mannlíf og náttúru – þau fyrirfinnast einnig hér á landi. Ábyrgðin á Marmorlik-málinu leggst öll á dönsku sósíaldemókratana, sem með samningi við Greenex hafa leigt út náttúruauðlindir Grænlands, sem tilheyra Grænlendingum sjálfum og engum öðrum.

Verkfallið í Marmorlik sýnir að Grænlendingar geta sigrað í viðureign við "risa" á borð við Greenex, og er það því mikill aflgjafi í baráttu Grænlendinga gegn ásókn erlendra ríkja og auðhringa í náttúruauðlindir Grænlands.

# AUÐVALDIÐ STUNDAR PERSÓNUNJÓSNIR

Lögregla og einstaka auðherrar í auðvalds- og afturhaldsríkjum um heim allan stunda umfangsmiklar njósnir um allt baráttufólk og kommúnista og skrásetur upplýsingar um það, sem svo eru óspart notaðar þegar tækifæri gefast. Þannig ganga listar með "varasömu" fólki milli atvinnurekenda og þeir reyna að komast hjá að taka í vinnu fólk sem líklegt er til að vinna að eflingu stéttarbaráttu verkafólks á viðkomandi vinnustað. Einnig eru kommúnistar og baráttufúst verkafólk rekið úr vinnu. Dæmi um þetta eru mýmörg um allan auðvaldsheiminn og nærtækt er t.d. að skoða öra þróun í átt til algers "atvinnubanns" á róttæku fólki í V-Þýskalandi, Frakklandi og víðar, að ekki sé talað um hrein fasistaríki eins og Spán, Sovétríkin, Indland o.fl. Í Noregi og Danmörku hefur auðvaldið hert mjög tök sín og aðgerðir gegn róttæku fólki, svo sem því, sem er í störfum hjá ríki og bæ. Hér á landi hefur ekki borið ýkja mikið á þessu, enda hefur kommúnísk hreyfing verið máttlaus og sundruð til langs tíma og verkalýðsbaráttan hefur oftast farið fram eftir "leikreglum auðvaldsins". Hér á landi eru engu að síður stundaðar njósnir um róttækt fólk og baráttusinna alls konar. Ljósmyndarar úr lögreglunni hafa vaðið um í mótmælaaðgerðum sem EIK(m-l) hefur staðið að, en einnig má sjá njósnara lögreglunnar við iðju sína í aðgerðum á vegum herstöðvaandstæðinga, stúdenta og fleiri aðila.



Símahleranir eru mikilsverðar fyrir lögregluna. Þetta er nýtt tæki framleitt í Bretlandi. Það er tengt við símakerfið og er stýrt af tölvu. Tölvan er mötuð á fjölda númera sem fylgjast á með. Síðan setur tækið segulband í gang í hvert sinn sem hringt er í eða úr viðkomandi númeri, skáir tímann og einnig hvaða númer önnur hafa haft samband við viðkomandi númer.

Eðlilegt er að auðvaldið reyni að verða sér úti um upplýsingar um EIK(m-l), félagatal samtakanna, starf þeirra o. fl. Auðvaldið veit af reynslunni, að það eru kommúnistar sem leiða munu baráttu verkalýðsins á öllum stigum hennar og að þeir munu og leiða að lokum sláginn stóra um sjálf þjóðfélagsvöldin, þegar auðvaldinu verður steypt í sósíalískri valdbyltingu verkalýðsins og vinnandi alþýðu. Auðvaldið reynir að afla sér upplýsinga um innviði kommúnísku samtakanna, til að freista þess að gera þau óvirk á hættutímum, það reynir að koma í þau flugumönnum o.fl.

EIK(m-l) halda enga skrá yfir félaga samtakanna og samtökin halda algerum hlífiskildi yfir þeim. Það hverjir eru félagar EIK(m-l) er mál samtakanna einna, svo og allt innra starf. Stefna samtakanna og starf út á við er hins vegar með öllu opinbert, en kommúnistar telja að í raun sé öflugt starf með verkalýðsfjöldanum – fyrir fjöldann besta öryggið fyrir stéttaróvininum.

Verkalýðsblaðið hvetur allt baráttufólk til að sýna byltingarsinnaða varúð gagnvart njósnum auðvaldsins. Við erum ekki í neinum gamansömum bófahasar, heldur krefst raunveruleikinn og reynslan þess að við tökum starf okkar alvarlega!

## BSRB...

frh. af forsíðu

bjóðenda sinna, félagsmanna, heldur fara þeir að vilja ríkisvaldsins í einu og öllu. Slíka menn viljum við ekki í samninganefnd stéttarfélags okkar, enda eru þeir þar að mestu leyti sjálfskipaðir.

Í nýjasta Ásgarði skrifar formaður BSRB, Kristján Thorlacius:..."Þrátt fyrir allt, koma þau (BSRB)félagslega sterk út úr þessari eldskírn fyrsta verkfalls opinberra starfsmanna með <u>viðunandi samninga".</u>

Telja má að félagar BSRB hafi margt lært í baráttunni og styrkst, en hitt er svo annað mál, að þegar samningamenn okkar taka afstöðu sem hér hefur verið lýst í lokin, þá verkar það sem reiðarslag á félagana og dregur úr baráttuþreki þeirra, enda er það augljóst þegar þetta er skrifað að þátttaka í atkvæðagreiðslunni er mjög dræm. Allt loft er farið úr forystumönnunum og samstöðunni hefur verið sundrað. Félagsmönnum finnst að lítið hafi náðst fram með verkfallinu, umfram þá reynslu sem þar fékkst.

Félagsmenn BSRB verða að einbeita sér að því að koma öllum stéttasamvinnumönnum út úr stjórn og treysta á sinn eiginn samtakamátt og standa vörð um vilja félagsmanna í sókn fyrir betri kjörum, en láta ekki fámenna forystusveit leiða sig til svæsnustu stéttasamvinnu og undansláttarstefnu.

Verkalýðsfréttaritari í BSRB.

## Kristneshæli...

frh. af forsíðu

frá fyrsta vinnudegi okkar. Þær stúlkur sem hafa unnið í langan tíma á staðnum vinna eingöngu sem sjúkraliðar, án nokkurrar menntunar. Á þennan hátt nýtir ríkisvaldið ódýran vinnukraft. Á Kristneshæli vinna aðeins 5 sjúkraliðar, en þörfin er helmingi meiri. Laun okkar á mánuði, fastakaup er 96.360 krónur – en sjúkraliðanna er talsvert hærra. Svo eru samningar verkalýðsfélagsins Einingar það lélegir, að við fáum ekki kauphækkun fyrr en eftir 2 ár og síðan ekki söguna meir. En starfsstúlkur í verkalýðsfélaginu Sókn fá kauphækkun eftir 1 ár og síðan eftir 3 ár. Okkur þykir tímabært að endurbæta þetta.

Við höfðum samband við formann sjúkraliðafélagsins á Akureyri. Hún sagði að skortur væri á sjúkraliðum, en hyggilegasta lausnin á þessum vanda væri ef til vill að koma áf stað námskeiði, sem kenndi undirstöðuatriði í hjúkrun. En starfsstúlkur væru að fara inná starfssvið sjúkraliða og veikja þeirra réttindi, hvort heldur við færum á námskeið eður ei.

Við erum óánægðar með þetta og höfum kvartað, sú breyting sem hefur orðið á starfsskipulaginu er til nokkurra bóta. Það voru sett skýr mörk milli verka á hverri vakt fyrir sig og tvískiptar vaktir afnumdar. Þar af eru nú sex starfsstúlkur sem vinna sjúkraliðastörf og þrjár sem inna af hendi gangaverkin. En launauppbót og námskeið vegna sjúkraliðavinnunnar er ekki frágengið. Það er krafa okkar að meðan skortur er á sjúkraliðum og við vinnum þeirra verk að við fáum kennslu í undirstöðuatriðum í hjúkrun og launauppbót.

<u>BARNAHEIMILI FYRIR ÚTVALDA.</u>

Svo er eitt annað hróplegt ranglæti hér á staðnum. Það er varðandi barnaheimili, sem var stofnað fyrir starfsfólk staðarins. Það eru engar ákveðnar reglur til fyrir þetta heimili. Það hefur gætt mótsagna í svörum yfirmanna, er grennslast hefur verið fyrir um hverjum heimilið eigi að þjóna. Upphaflega var heimilið aðeins fyrir börn hjúkrunarfræðinga og sjúkraliða. En í dag er barnaheimilið fyrir valið fólk alls staðar að, en um leið hefur barni hjúkrunarfræðings og gangastúlku verið neitað um vist á heimilinu. Við viljum breyta þessu og fórum af stað með undirskriftalista þar sem starfsfólk staðarins gat skrifað undir og stutt okkur í að eiga jafnan rétt á að nota barnaheimilið og annað starfsfólk hælisins. Við getum ekki skilið, að barnaheimilið sem er tengt vinnustað, eigi ekki að þjóna öllum vinnukrafti staðarins.

<u>EKKI EINS MIKILVÆGUR VINNUKRAFTUR.</u>

Það hafa verið uppi raddir um að við séum ekki eins mikilvægur vinnukraftur og hinn menntaði, en það sér hver maður, að þetta getur ekki staðist. Þess vegna er það krafa okkar að fá inni á barnaheimilinu fyrir ÖLL börn starfsfólks staðarins og um það verði settar ákveðnar reglur sem ekki verði möguleiki að sniðganga.

Starfsstúlkur á Kristnesi.
(Millifyrirsagnir settar af Vbl.).

## Sigur...

frh. af forsíðu

mánudagskvöldið 14. nóvember.

Að morgni þess dags lagði starfsfólkið á öllum þremur barnadeildum hælisins niður störf í mótmælaskyni við geðþóttatilfærslur á tveimur starfsstúlkum á milli deilda á hælinu án samráðs við þær sjálfar. Sá sem skipaði svo fyrir að stúlkurnar skyldu fluttar, er Jón Sig. Karlsson, sálfræðingur, og tilkynnti hann annarri stúlkunni um ákvörðun sína með ½ klst. fyrirvara, en hinni með tveggja daga fyrirvara. Þessu var mótmælt og þess krafist að stúlkurnar yrðu um kyrrt á sinni deild og að morgni mánudagsins var skipulagt verkfall starfsstúlkna, sem fyrr segir. Var einungis sinnt nauðsynlegustu þjónustu á meðan á því stóð, en um hádegið gafst sálfræðingurinn upp og gekk að meginkröfum starfsfólksins. Var niðurstaða samninganna sú, að önnur stúlkan verður áfram á sínum stað, en hin var flutt, en hún hafði áður sagt upp starfi með 6 vikna fyrirvara.

Einnig varð sá árangur í verkfallinu, að fullur samningur fékkst í gegn um að tilfærsla starfsfólks fari aldrei fram hér eftir nema í samráði við viðkomandi. Þarf að rökstyðja ástæður þess og ef viðkomandi vill alls ekki flytja sig, þá er gefinn 6 vikna frestur (að sögn starfsstúlku á Kópavogshæli hefur örsjaldan komið til þess að gripið hafi verið til tilfærslu á starfsfólki á milli deilda).

<u>HVAÐ VANNST Í VERKFALLINU?</u>

Vbl. spurði Sóknarstúlkuna á Kópavogshæli, hvaða lærdóma mætti almennt draga af þessu sigursæla verkfalli 14. nóv.
– Fyrir okkur þýðir þetta afgerandi bætta samstöðu og herðingu í baráttunni. Starfsstúlkur allra barnadeildanna kynntust líka í verkfallinu, en áður hafði verði lítill sem enginn samgangur á milli deildanna. Við ætlum framvegis að halda mánaðarlega fundi með okkur og ræða málin og það tel ég til mikilla bóta.

Verkfallið hefur svo að ~~[illegible]~~ þýðingu fyrir allar Sóknarstúlkur og allt starfsfólk á spítölum. Við sýndum að barátta borgar sig, jafnvel á "viðkvæmum" vinnustöðum eins og Kópavogshæli er. Okkur var sagt að það væri "hefð" hjá Sókn að fara aldrei í verkfall og það er lærdómur út af fyrir sig að sýna fram á fánýti þess að halda í slíka hæversku í kjarabaráttunni.

# Sumarráðstefna EIK (m-l) ágúst 1977
# Ályktun um alþjóðaástandið

## I. Þróun auðvaldsins á heimsmælikvarða.

Eitt megineinkenni þróunar alþjóðamála nú á tímum, er dýpkandi kreppa auðvaldsins. Henni fylgir harðnandi stéttabarátta og aukin hætta á nýju valdastríði risaveldanna. Almenn kreppa auðvaldsins á rætur sínar í innri andstæðum þess. Kreppan skerpist stöðugt m.a. vegna þjóðfrelsisbaráttu kúguðu þjóðanna, sem leiðir til minnkandi lífsrýmis auðvaldsins. Á skeiði heimsvaldastefnunnar, sem er einokunarauðvald, en um leið rotnandi og deyjandi auðvald eru styrjaldir óhjákvæmilegar, bæði óréttmæt árásarstríð auðvaldsins og réttmæt byltingarstríð alþýðunnar. Á þessari öld hafa þegar tvö stórveldastríð átt sér stað. Heimsástandið ber það þriðja í skauti sér, sem heimsvaldaríkin og sérstaklega risaveldin tvö undirbúa. Meginhreyfiöfl heimþróunarinnar eru þessar andstæður (móthverfur):

-Andstæðan milli kúguðu þjóðanna annars vegar og heimsvalda- og sósíalheimsvaldastefnunnar (kennd við Sovétríki nútímans) hins vegar.

-Andstæðan milli auðstéttar og verkalýðs í auðvalds- og ríkisauðvaldslöndunum (Sovétríkin og fylgiríki þeirra).

-Andstæðan milli heimsvaldastefnunnar og sósíalheimsvaldastefnunnar og heimsvaldalandanna innbyrðis.

-Andstæðan milli sósíalísku ríkjanna annars vegar og heimsvalda- og sósíalheimsvaldastefnunnar hins vegar.

Eftir II.heimstyrjöldina var andstæðan milli sósíalísku ríkjanna og heimsvaldastefnunnar mikilvægust. Um helmingur mannkyns bjó þá við uppbyggingu sósíalisma. Styrjöldin fæddi af sér þjóðfrelsisstríð og byltingar. Ekkert óttaðist auðstéttin meira en sósíalíska heiminn með Sovétríkin í fararbroddi. En með valdatöku Krústjoffs og endurreisn kapítalisma í Sovétríkjunum breyttist þetta; gömul og ný yfirstétt náði völdum í stéttabaráttunni og tók upp nýja hagskipan, sem er ríkisauðvaldskerfi. Landið varð heimsvaldasinnað og innanlands tók við fasismi af stéttarveldi verkalýðsins.

Sósíalíski heimurinn klofnaði og endurskoðunarsinnar (falssósíalistar) stöðvuðu uppbyggingu sósíalismans í löndum A-Evrópu. En alþýðulýðveldin Kína og Albanía héldu merkjum marx-lenínisma hátt á lofti. Þrátt fyrir það varð tímabundinn afturkippur í byltingarhreyfingu heimsins.

Eftir að sósíalíski heimshlutinn var ekki lengur til sem ein stór heild og þjóðfrelsisbaráttan magnaðist frekar, kom fram ný meginandstæða í heiminum. Í stað andstæðunnar milli sósíalísku ríkjanna og heimsvaldastefnunnar (sem auðvitað er enn við lýði), kom andstæðan milli kúgaðra þjóða og heimsvalda og sósíalheimsvaldastefnunnar fram sem sú mikilvægasta. Tilhneigingunni í þróun heimsins er lýst með þessum orðum: -Lönd vilja sjálfstæði, þjóðir vilja frelsi og alþýðan byltingu

## II. Skipting heimsins hin síðari ár.

Fyrrgreindar fjórar helstu andstæður heimsþróunarinnar útskýra hvernig stéttabaráttan birtist í heiminum. Með þær að undirstöðu er unnt að skilja heimsástandið og skipa ríkjum veraldar í þrjá hópa. Sú skipting er afar mikilvæg og tengist stjórnlist byltingarbaráttunnar í hverju landi. Hún tekur mið af herstjórnarlistinni: - Einangraðu og nýttu þér veikari hluta óvinaliðsins, sem er í mörgu andstæður voldugasta hlutanum. Samfylktu öllum framsæknum öflum undir forystu verkalýðs.

Kenningin um þrjá heima er í flestu verk Maó Tsetungs. Risaveldin Bandaríkin og Sovétríkin eru þau auðvaldsríki, sem reyna að teygja arðránsklær sínar og yfirráð um allan heim. Þau nefnast 1.heimurinn. Þau berjast um heimsyfirráð, annað í nafni "frelsis og lýðræðis" hitt í nafni "alþjóðahyggju og sósíalisma". Bæði eru þau auðvaldsríki og hættulegasti óvinur alþýðunnar á heimsmælikvarða.

Minni auðvaldsríki í Evrópu, Japan, Kanada o.fl. einkennast af tvíbentri afstöðu. Þau eru afturhaldssöm og heimsvaldasinnuð ríki, sem byggja á arðráni heima fyrir og erlendis. Samtímis eru þau ekki eins öflug og risaveldin og liggja undir ásælni þeirra. Þetta er 2. heimurinn. Um leið og ríkin og auðstéttir þeirra eru andstæðingar verkalýðs og alþýðu sömu landa, reyna þau að verja hagsmuni sína gagnvart risaveldunum og andæfa þeim oft. Af þessu leiðir að þegar Efnahagsbandalag Evrópu, sem er smíðað til mótvægis Bandaríkjunum og Sovétríkjunum öðrum þræði, framkvæmir aðgerðir sem veikja risaveldin, er það byltingaröflum heimsins í hag. En það táknar ekki að alþýða hvers lands skuli berjast fyrir aðild að EBE. En byltingaröflin verða að nýta sér andstæður meðal auðvaldsins.

Hin fáu sósíalísku ríki með alþýðulýðveldin Kína og Albaníu í broddi fylkingar, nýfrjáls ríki og nýlendur teljast til 3.heimsins. Þessar þjóðir hafa hlutlægan hag af því að snúast gegn heimsvaldastefnunni og sérstaklega risaveldunum. Þrátt fyrir ólík þróunarstig og oft afturhaldssamar yfirstéttir og ríkisstjórnir, geta þau myndað og eru að mynda samfylkingu fyrir nýrri efnahagsskipan í heiminum. Þau munu hvert af öðru verða frjáls, framsækin og sósíalísk ríki. Saman mynda undirokaðar þjóðir 3.heimsins og alþýða, undir forystu verkalýðsstéttar hvers lands, meginafl heimsbyltingarinnar nú á tímum.

## III. Stríð og bylting.

Öfl heimsbyltingarinnar eru tvískipt. Þjóðir og alþýða 3. heimsins stefna í fyrsta áfanga að lýðræðislegu alræði alþýðunnar og þjóðfrelsi, síðan að sósíalisma og alræði verkalýðsins. Verkalýðsstétt og vinnandi alþýða auðvaldslandanna og ríkisauðvaldslandanna (1. og 2. heimsins) stefnir að sósíalískri byltingu og alræði verkalýðs. Sameiginlegt verkefni þessara afla er m.a. að verja sjálfsákvörðunarrétt og pólitískt ríkjasjálfstæði allra landanna. Mikilvægt er að tvö öfl heimsbyltingarinnar taki æ betur höndum saman. Það byggist á stuðningi við 3.heiminn og allar byltingarhreyfingar, stuðningi við viðleitni 2. heimsins til að verjast ásókn risaveldanna og sleitulausri baráttu gegn 1. heiminum og öllu afturhaldi í sérhverju landi.

Nú kreppir alls staðar að heimsvaldalöndunum. Hert barátta gegn auðvaldinu, aukin andstaða gegn endurskoðunarstefnunni, þjóðfrelsisbarátta og innri mótsagnir auðvaldsins mjaka gamla þjóðskipulaginu á grafarbakkann. Gegn byltingaröflunum stendur ógnandi en innanfúinn andstæðingur. Til viðbótar innri andstæðum auðvaldslandanna veikir innbyrðis togstreita auðvaldskerfið. Jöfn þróun og einhlýt samstaða auðvaldslanda er ekki til. Eitt einkenni heimsvaldastefnunnar er það að fáein stórveldi innan heimsvaldablokkarinnar berjast um heimsyfirráð. Þegar misræmi verður milli stærðar áhrifasvæðis og hernaðarlegs, pólitísks og efnalegs styrks dregur til valdastríða á takmörkuðu svæði eða heimsmælikvarða.

Nú eru risaveldin tvö. Þau eru fallvölt og eiga í æðisgengnu vígbúnaðar og arðránskapphlaupi, sem þau fela m.a. með blekkingarvefum "detente" (slökunarstefnu) og friðar- og afvopnunarráðstefnu. Það eru Sovétríkin sem skortir lífsrými, en Bandaríkin hafa beðið hvert skipbrotið af öðru, innan og utanlands m.a. í Viet Nam og Kampucheu. Sovétríkin eru þeim mun líklegri til upphafs styrjaldar.

Risaveldin hafa þegar hafið átökin sín á milli m.a. í 3. heiminum. Dæmi um slíkt er styrjöldin í Angóla og nú Eþíópíu. En háþróuð Evrópa er samt sem áður aðal keppikefli risaveldanna. Í styrjöld um hana yrðu Norðurlönd mitt í eldlínunni. Tilhneigingin til stórstyrjaldar og tilhneigingin til byltingar í heiminum fara báðar vaxandi. Nú sem stendur nálgast styrjöld óðfluga fremur en bylting, en til lengdar kemur ekkert í veg fyrir sigur byltingaraflanna, enda risaveldin veikburða þrátt fyrir ytri stærð og styrk.

Stríð eða bylting, hvort tveggja setur kommúnistum og alþýðunni mörg verkefni - hvort tveggja færir endanlegan ósigur auðvaldsins nær. Komi til stríðs er eina svarið við árás annars hvors risaveldisins á Ísland, alþýðustríð fyrir þjóðfrelsi og sósíalisma, undir forystu verkalýðsins og kommúnista. Gervisósíalistar prédika friðlýsingu og frið, án baráttu, sem raunhæfan möguleika. Flestir þeirra styðja auk þess Sovétríkin leynt og ljóst. Mikilvægt er því að yfirvinna áhrif þeirra meðal verkalýðs og framsækins fólks, því stefna þeirra leiðir aðeins ósigra yfir byltingaröflin, sbr. Chile '73.

## IV. Hvað ber að gera?

EIK(m-l) álykta að eftirtalin verkefni séu brýn úrlausnar:

a) Eina aflið sem getur leitt baráttuna til sigurs með verkalýðsstéttinni er kommúnistaflokkurinn. EIK(m-l) vinna að undirbúningi stofnunar hans. Mikilvægt er því að efla þessa baráttu og hraða flokksstofnuninni.

b) Gera verður alþýðu Íslands stríðshættuna ljósa, hvert hernaðarlegt mikilvægi Íslands er, hvers eðlis ásókn risaveldanna á Ísland er, og hvers konar baráttu skal heyja gegn risaveldunum og stríðshættunni.

c) Efla verður baráttu fyrir því að samtök sem hafa andheimsvaldasinnaða baráttu á stefnuskrá sinni hefji raunverulega baráttu gegn báðum risaveldunum, allri heimsvaldastefnu og fyrir verndun sjálfsákvörðunarréttar ísl. þjóðarinnar. Úrsögn úr Nató og afnám bandarískra herstöðva hér, ásamt útilokun Sovétríkjanna er höfuðverkefnið í þessari baráttu.

d) Bandaríkin og Sovétríkin eiga talsmenn í öllum borgaralegu stjórnmálaflokkunum, að meðtöldum Alþýðuflokki og Alþýðubandalaginu. Þessa talsmenn verður að afhjúpa og gera ísl. alþýðu ljósara að það er hún sem verður að verja sjálfsákvörðunarrétt þjóðarinnar, vegna þess að auðstéttin mun ekki gera það. Auðstéttin selur hann að hluta í hendur þeim sem hæst býður á hverjum tíma fyrir eigin gróða. Barátta gegn erlendum auðhringum og allri rányrkju er lífsnauðsynleg.

e) Hvetja verður ísl. alþýðu til að styðja sósíalísku ríkin og stéttarveldi verkalýðsins gegn árásum stéttaróvinarins og falssósíalistanna. Einnig verður að styðja alræði alþýðunnar í alþýðulýðveldunum og þjóðfrelsisbaráttu í 3ja heiminum í verki, m.a. með fjárframlögum og upplýsingamiðlun.

# Einangrunar

frh. af bls.2

að þvo einangrunarstefnuna af sjálfum sér, að þeir eru nú komnir hálfir inn í Alþýðubandalagið (sbr. síðustu ráðstefnu Samtaka herstöðvaandstæðinga) og leika tveimur skjöldum í flestum málum (sbr. frammistöðu þeirra fyrir aðgerðirnar 21. ágúst s.l.). Þeir lýsa sig reiðubúna til sameiningar við EIK(m-l) "án skilyrða", þ.e. án nokkurrar einingar um starf eða stefnu. Þeir þjóta í flestallar samfylkingar og aðgerðir sem efnt er til, án þess þó að geta starfað þar af nokkru viti sökum vinnuálags við vikutímaritið og verða þannig hreyfingunni aðeins til óþurftar. Það er hægt að forðast einangrunarhyggjuna það vandlega að útkoman verði hrein hentistefna!

Við skulum að lokum árétta nokkur atriði:

1. Ef það er "einangrunarhyggja" að neita að gerast halaklepri Alþýðubandalagsins, þá erum við einangrunarsinnar!
2. Ef það er "einangrunarstefna" að vilja halda fast við grundvallaratriði marx-lenínismans, þá erum við einangrunarsinnar!
3. Ef það er "einangrunarstefna" að vilja sameinast á grundvelli pólitískrar einingar en ekki hrossakaupa, þá erum við einangrunarsinnar!
4. Ef það er "einangrunarstefna" að neita að setja sér verkefni sem ekki er hægt að sinna vel, þá erum við einangrunarsinnar!

Í stuttu máli, ef það er "einangrunarstefna" að neita að liggja líkt og gleðikona undir hverri pólitískri hræringu, þá játum við fúslega á okkur einangrunarstefnu og erum stolt af!

# Sóknarstúlkur...

frh. af forsíðu

Þetta sögðu þrjár Sóknarstúlkur, Gerður Oddsdóttir, Ólöf Bjarnadóttir og Jóhanna Jakobsdóttir í samtali við Verkalýðsblaðið. Þær starfa á Kópavogshæli, en ástæða þess að blaðamaður hitti þær að máli er sú, að þær hafa átt í baráttu við yfirmenn Kópavogshælis/ríkisspítalanna um að fá viðurkennda vinnu sem þær hafa innt af hendi - en án árangurs. Þær hafa leitað eftir aðstoð stéttarfélags síns, en hún reyndist gagnslítil og Aðalheiður Bjarnfreðsdóttir, formaður Sóknar, kvaðst lítið geta gert vegna þess að þær hefðu "farið rangt að" í sinni baráttu!

HELSTU ATRIÐI MÁLSINS

Málavextir eru í stuttu máli þeir, að Kópavogshæli hefur haft til umráða tíma s.l. sumur í sumarbústað einum á Kjalarnesi, en bústaðurinn er á vegum Styrktarfélags vangefinna. Þangað hefur svo verið farið með vistmenn Kópavogshælis í dagsferð eða að dvalið hefur verið þar lengur. Þær Gerður, Ólöf og Jóhanna fóru eina slíka ferð nú í haust, auk þeirra var fjórða starfsstúlkan, sem nú í haust hætti störfum á Kópavogshæli. Þær dvöldu með vistmennina í sumarbústaðnum á þriðja sólarhring og gefur auga leið að ekki er hægt að líta á allan þann tíma öðru vísi en sem hreinan vinnutíma, þar sem þær voru á nokkurs konar bakvakt á næturnar og þurftu að hafa andvara á sér ef eitthvað bæri út af. Þær skrifuðu síðan á vinnuskýrslur sínar alla yfir- og næturvinnu sem þær höfðu innt af hendi í sumarbústaðnum, enda hafði þeim verið sagt áður að öll yfirvinna í ferðinni yrði greidd - sem og eðlilegt er. Því má svo skjóta hér inn, að þegar þær komu heim með vistmennina um kl.13, þá átti að setja tvær þeirra beint á vakt á deildum, sem þær auðvitað höfnuðu.

Þegar kom að greiðslu launa fyrir viðkomandi tímabil, kom í ljós að alls engin aukavinna var reiknuð hjá stúlkunum fyrir sumarbústaðsdvölina, þær fengu aðeins greidda sína venjulegu 8 dagvinnutíma og þar með búið. Þessu var strax mótmælt, en svarið sem fékkst, var m.a. það að litið væri á þetta sem skemmtiferð. Málinu var vísað til Aðalheiðar Bjarnfreðsdóttur, form. Sóknar, sem áður hafði látið í ljós það álit að stúlkurnar ættu að skrifa á vinnuskýrslur sínar alla þá eftirvinnu sem þær höfðu innt af hendi. Skömmu síðar kom fram "sáttatilboð" í deilunni frá Eyjólfi Melsteð, aðstoðarforstöðumanni á Kópavogshæli, sem hann sagði vera gerða í "samráði við ykkar stéttarfélag" (þá væntanlega Aðalheiði Bj.). Tilboðið hljóðaði upp á að þær fengju greiddar 2 stundir í eftirvinnu og 2 í næturvinnu, en auk þess fengi ein stúlkan 1 næturvinnutíma til viðbótar, þar sem hún hafði notað einkabíl sinn mikið í sambandi við ferðina í sumarbústaðinn ( og greiðsla fyrir 1 næturvinnutíma segir auðvitað lítið upp í kostnaðinn vegna þess!).

Stúlkurnar hafa ekki svarað þessu tilboði, en þykir það eðlilega langt frá lagi. Frekari aðstoðar er ekki að vænta frá Aðalheiði Sóknarformanni, sem að lokum gaf þeim upp símanúmer hjá lögfræðingi og sagðist ekki geta meira fyrir þær gert! Formaðurinn telur það því greinilega ekki skyldu sína að beita afli Sóknar til að berjast fyrir viðurkenningu atvinnurekenda á jafn augljósu réttlætismáli og hér hefur verið lýst.

TVÍSKINNUNGUR.

- Atvinnurekendur hafa vísað til þess að þetta og hitt hafi þótt sjálfsagt að gera fyrir ekkert hingað til, segja Sóknarstúlkurnar þrjár, einnig er höfðað til tilfinninganna með því að segja að þetta "pex" í okkur geti orðið til þess að vistfólkið missi algerlega tækifærið til að fara í hressingarferðir í sumarbústaðinn á sumrin. Við leggjum á það áherslu að það er mikilvægt að þessar ferðir haldist við, en viljum jafnframt að nú verði farið að viðurkenna í reynd alla vinnu sem starfsstúlkur inna af hendi. Það er aðeins lágmarks krafa!

Verkalýðsblaðið lýsir yfir stuðningi við baráttu og réttmætar kröfur Sóknarstúlknanna og hvetur allt verkafólk sem lent hefur í eða á í svipaðri eða annars konar kjara- og réttindabaráttu, að hafa strax samband við blaðið. Fátt er verkafólki jafn mikilvægt að það, að eiga vísan aðgang að málgagni sem það getur treyst að standi því að baki í baráttunni. Verkalýðsblaðið er að vísu enn veikur fjölmiðill, en styrkur þess vex og vex, atvinnurekendum og þjónum þeirra í verkalýðsforystunni til skelfingar!

VERKALÝÐSBLAÐIÐ
ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

ÁBYRGÐARMAÐUR : ALBERT EINARSSON

Ársáskrift: kr. 1500
Stuðningsáskrift: kr. 2500

ÓÐINSGÖTU 30
Pósthólf 5186, Reykjavík
SÍMI: 29212 - 35904

Málgagn EIK(m-l)
Gerist áskrifendur
Áskrift greiðist á gíró 12200 - 9



## Þjóðviljinn og byltingarafmælið:

# Árni Bergmann stundar sögufölsun

Árni Bergmann, einn af hugmyndakempum Þjóðviljans og hérlendra gervisósíalista, geystist út á ritvöllinn með grein um Októberbyltinguna og áhrif hennar, í Þjóðviljanum 6.nóv. sl. Í grein þessari stundar ÁB hættulega sögufölsun hvað varðar umsögn hans um Stalín, Trotsky, Kínverja og sovéska þjóðfélagið í dag. Um Stalín segir hann:

> Stalín með Churchill og Roosevelt á Jalta: hagsmunir hins sovéska ríkis og sósíalismi eru ekki eitt og hið sama.

> flokknum, en síðar vék öll umræða fyrir geðþóttastjórn Stalíns.
> Fjórir þessarra manna létu lífið fyrir aftökusveitum um það bil fimmtán árum síðar ásamt með fjölmörgum öðrum forystumönnum byltingarinnar.

> B) Innanlandsástandið — einkum eftir að stalínskir stjórnarhættir festust í sessi, varð í mótsögn við kröfur sósíalískrar hugsjónar um jafnrétti og frelsi.

Þegar um er að ræða stjórnarhætti Stalíns finnst ÁB ekki taka því að rökstyðja mál sitt. Stalín gerði villur - en um geðþóttastjórn var aldrei að ræða. Allan tímann meðan Stalín lifði ríkti alræði öreiganna í Sovétríkjunum og hið lýðræðislega miðstjórnarvald var að mestu í lagi. Þetta þýðir að verkamenn, bændur og hermenn höfðu hið raunverulega pólitíska vald, eins og vera ber í sósíalismanum. Þetta getur ÁB og hans líkar lesið um m.a. í "Fredelig kontrarevolusjon, del 1," eftir Svíann Nils Holmberg, 75 ára, sem í fleiri áratugi var flokksbundinn í Kommúnistaflokki Svíþjóðar og hefur aflað sér þekkingar meðal annars með því að heimsækja Sovétríkin meðan þau voru sósíalískt þjóðfélag. En ÁB velur að trúa á afturhaldsmenn, sem rægja Stalín m.a. í þeim tilgangi að sverta sósíalismann. Hér ræðst ÁB á Stalín af afli:

> góðir menn lifðu á lengi — eins þótt tíðindi nokkrum árum síðar af ískyggilegum réttarhöldum yfir ýmsum helstu forystumönnum rússnesku byltingarinnar (hreinsanirnar 1936-38) væru hin hrikalegustu. Rétt eins og hrifningin af stríðsafrekum sovésku þjóðarinnar fleytti mörgum yfir ótíðindi í Austur-Evrópu (Slanski- og Rajkréttarhöldin) og gyðingaofsóknir Stalíns (læknamálið).

> Trotskí var um þessar mundir annar þekktasti leiðtogi byltingarinnar. Hann hlaut mikið lof fyrir skipulagningu Rauða hersins og sést hér með herforingjaráði sínu. Trotskí beið ósigur fyrir Stalín í átökum um kommúnistaflokkinn og stefnu hans, var hrakinn í útlegð og síðar myrtur.

En Stalín stendur þetta veður af sér. Eitt er rétt: við umtöluð réttarhöld voru gerð mistök. Það kom fyrir að saklaust fólk var dæmt. Þetta viðurkennir Stalín sjálfur (sjá Fredlig kontrarevolution). Þetta viðurkennir einnig Kínverski Kommúnistaflokkurinn (sjá afstöðu þeirra til Stalíns). Þetta viðurkenna marx-lenínistar um allan heim í dag. En um skipulögð fjöldamorð á góðum og gömlum bolsévikum var aldrei að ræða. Orsökin fyrir hreinsuninni var skipulögð gagnbyltingar- og glæpaklíka sem meðal annars hafði í hyggju að drepa helstu forystumenn kommúnistaflokksins og voru byrjaðir á því. Aðferðin var að hasla sér völd innan bolsévikaflokksins og skipuleggja þaðan gagnbyltingarstarf. Meðal þessara var Trotsky. Fyrir vikið hlaut hann þungan dóm sögunnar sem svikari alþýðunnar. En ÁB finnst Trotsky vera besti karl sem "beið ósigur fyrir Stalín í átökunum um kommúnistaflokkinn og stefnu hans." Réttarhöldin voru nauðsynleg til þess að verja alræði öreiganna á tímum harðrar stéttabaráttu. Það vitum við. En blóðsúthellingar urðu of miklar, það viðurkennum við líka.

> Stalín vill bæði á þriðja áratuginum og á heimsstyrjaldarárunum fá kínverska kommúnista til að sætta sig við forystu Kuomintangs og Sjang Kæsjéks — hin fyrri villan leiddi til mikils blóðbaðs verkalýðs kínverskra stórborga, í hinu seinna tilviki fóru kínverskir kommúnistar sínu fram. Vantrú Stalíns á kínverskum byltingaröflum, stórveldistilburðir hans í Mansjúríu eftir stríð sem og sá gikksháttur Krúsjofs

> að kalla sovéska tæknimenn og teikningar þeirra heim frá Kína 1960 — allt hefur þetta lagst á eitt um að skapa fullan fjandskap milli tveggja voldugra granna, sem ættu, ef marka mætti fagra kenningu, að vera öðrum fyrirmynd í sambúð.

Hér segir ÁB aftur ósatt. Kínverjar hafa sjálfir tekið þetta mál fyrir í "Afstaðan til Stalíns", opið bréf til Kommúnistaflokks Sovétríkjanna 1963. Þar segir: " En þar sem hinar röngu hugmyndir, sem Stalín setti fram, voru viðurkenndar og notaðar af ákveðnum kínverskum félögum, verðum við Kínverjar að bera ábyrgðina."

Sambúð þessara tveggja ríkja var góð, alveg fram að 1956, er Krústjoff og hans gagnbyltingarklíka tekur völdin. Þá versnar sambúðin. Kínverjar vara við endurskoðunarstefnu nýju herranna í Kreml. Krústjoff svarar m.a. með því að kalla heim tæknimenn sína frá Kína. Það er því Krústjoff eftir 1956, en ekki Stalín fyrir 1953 sem skapar "fullan fjandskap milli tveggja voldugra granna". Kínverjar urðu óvinir Kremlverja vegna þess að þeir endurskoða marx-lenínismann, alræði öreiganna er liðið undir lok og ríkiskapítalsimi við lýði, en hann getur aldrei þjónað hagsmunum alþýðunnar.

> þetta undarlegt. Þeim finnst — sumum hverjum — þversögn í því, að nú, þegar fórnir og afglöp hinna erfiðustu tíma eru að baki, þegar lífskjör almennings hafa batnað verulega og stjórnarhættir eru miklu manneskjulegri en t.d. á Stalínsdögum — að þá þykir fordæmi þeirra miklu síður freistandi en fyrir 30-40 árum.

> Sovéskt þjóðfélag tryggir þegnum sínum atvinnu og menntun og framfarir í þeim mæli, að það er lýsandi fordæmi verkalýð í auðvaldsheimi nú sem fyrr.

> hvað var „óumflýjanlegt" í þróun þess? Né heldur verður það ragað, hvaða eiginleika sósíalísks samfélags hið sovéska hefur, og hverja það vantar að nokkru eða öllu. Hin sterka trú á sköpunarmátt hinnar sovésku byltingar, sem reis á sínum tíma, var ekki

Þetta eru einkunnirnar, sem ÁB gefur sovéska þjóðfélaginu í dag; Þrátt fyrir að Krústjoffsmenn taka völdin '56 og Sovétríkin breytist í kapítalískt þjóðfélag af fasískri gerð, risaveldi sem blæs í stríðslúðra, segir ÁB að ástandið hafi aldrei verið betra!

ÁB er enginn alþýðusinni eða kommúnisti. Ef svo væri myndi hann ekki rægja hinn mikla byltingarmann Stalín, sem í áratugi leiddi fyrsta sósíalíska ríki heimsins, og heldur ekki breiða yfir heimsvaldaásælni Sovétríkja nútímans.

Kínverjar kalla menn eins og ÁB "Hænsnahópur á sorphaugi bakgarðs verkalýðshreyfingarinnar!"

## Meira um Stjórnunarfélag Íslands:

# Þar sitja framkvæmdarstjórar ASÍ og BSRB

Stjórnunarleikur
Framleiðslustýring og verksmiðjuskipulagn
Arðsemisstjórnun
markaðsmála
Mat fjárfestingavalkosta
Markaðssókn
Þátttakendur:
Þetta námskeið er ætlað stjórnendum fyrirtækja, bæði í fjármála- og framleiðslustjórn (framkvæmdastjórum, skrifstofustjórum, framleiðslustjórum, verkstjórum o. fl.), ennfremur stjórnendum stofnana og öðrum áhugamönn... um rekstur fyrirtækja.
Arðsemi og áætlanagerð

NOKKUR DÆMI UM NÁMSKEIÐ STJÓRNUNARFÉLAGSINS

Verkalýðsblaðið hefur tvívegis áður gert Ásmundi Stefánssyni, hagfræðingi ASÍ, þann heiður að kynna störf hans sem fræðslustjóra Stjórnunarfélags Íslands en það er félagsskapur "stofnana, fyrirtækja og einstaklinga, sem stuðla vilja að betri rekstri með bættri stjórnun", eins og segir í auglýsingu um Stjórnunarfélagið (SFÍ). Þetta er með öðrum orðum samkunda atvinnurekenda og annarra manna úr borgarastétt til að samræma aðgerðir og framkvæmdir til að ná hámarksgróða út úr framleiðslustarfi verkafólks. Þeir auðsins menn hafa svo ekki amalega meðreiðarsveina úr verkalýðsforystunni. Auk Ásmundar (sem situr í fræðsluráði SFÍ ásamt Ragnari Halldórssyni, forstjóra álversins í Straumsvík!), eru tveir mektarmenn aðrir úr verkalýðsforystunni í framkvæmdaráði SFÍ. Þeir eru báðir toppmenn í Alþýðubandalaginu, eins og Ásmundur ASÍ-hagfræðingur. Hér er um að ræða þá Harald Steinþórsson, framkvæmdastjóra BSRB og Snorra Jónsson, framkvæmdastjóra ASÍ. Með þeim kumpánum í framkvæmdaráðinu sitja ýmsir mætir menn, svo sem Jón Sigurðsson, ráðuneytisstjóri í fjármálaráðuneytinu (sá sem meðal annars vann sér til frægðar í BSRB-verkfallinu að ráðast með barsmíðum og ofbeldi á tvo verkfallsverði BSRB við matstofu Stjórnarráðsins í Arnarhvoli), Erlendur Einarsson, forstjóri Sambandsins, Eyjólfur Ísfeld Eyjólfsson, forstjóri Sölumiðstöðvar hraðfrystihúsanna, Jón Bergs, formaður "vinnuveitenda"sambandsins, Ottó Michelsen, forstjóri IBM-auðhringsins á Íslandi. Framkvæmdastjóri Stjórnunarfélagsins er svo Friðrik Sóphusson, sem er í forystu fyrir folaldafélagi Sjálfstæðisflokksins og hann hefur m.a. tekið þátt í opinberum skrifum hálf-fasista og al-fasista undanfarið - þess efnis að Sjálfstæðisflokkurinn sé orðinn allt of "sósíalískur"!

### NÁMSKEIÐIN HANS ÁSMUNDAR

Stjórnunarfélagið hefur nýlega gefið út bækling með "hagræðingarnámskeiðum" sem það ætlar að halda í vetur fyrir atvinnurekendur og leppa þeirra í forystu verkalýðshreyfingarinnar. Þessi bæklingur er stolt afurð Ásmundar ASÍ-hagfræðings og hugmyndafræðings arðræningjanna í SFÍ. Forvitnilegt er að renna augum yfir titla námskeiða Ásm. í vetur: "Stjórnun"; "Stjórnunarleikur"; "Stefnumótun fyrirtækja"; "Arðsemi og áætlanagerð"; "Mat fjárfestingarvalkosta"; "Framleiðslustýring og verksmiðjuskipulagning"; "Gæðastýring"; "Markaðssókn"; "Um þjóðarbúskapinn"; "Skattskil einstaklinga með sjálfstæðan atvinnurekstur"; "Sala, verðbólga, óvissa, áhætta"; o.s.frv.

Hljómar ekki vel að toppmenn í Alþýðubandalaginu og verkalýðshreyfingunni skuli sjóða saman og taka þátt í slíkum námshópum, sem miðast að því að gera auðmönnum auðveldara að arðræna og kúga verkafólk? Jú, vafalaust hljómar þetta bærilega í eyrum auðherranna, en lítið hefur verið gert af því að fletta ofan af Stjórnunarfélaginu fyrir alþýðu manna (nema í Verkalýðsblaðinu) og Þjóðviljinn hefur verið furðu þögull um þennan sameiginlega félagsskap kapítalista og leppa þeirra úr Alþýðubandalaginu/verkalýðsforystunni.

### SKÓLABÓKARDÆMI UM STÉTTASAMVINNU

Náin tengsl toppmanna úr Alþýðubandalaginu/verkalýðsforystunni við atvinnurekendur og aðra hluta borgarastéttarinnar í gegnum Stjórnunarfélagið, er skólabókardæmi um það sem við höfum kallað og köllum stéttasamvinnu.

Stéttasamvinnan er í stuttu máli fólgin í sameiginlegum rekstri auðherra, embættismanna ríkisvaldsins og fámennrar klíkumanna úr forystu verkalýðssamtakanna á arðránsþjóðfélaginu á Íslandi. Margir forystumanna í verkalýðshreyfingunni teljast því ekki lengur hluti verkalýðsstéttarinnar, heldur hreinn og klár hluti af borgarastéttinni og eru því ósættanlegir andstæðingar verkafólks.

Höfuðverkefni kommúnista og baráttufúss verkafólks er því það, að berjast gegn stéttasamvinnustefnunni í verkalýðshreyfingunni. Berjast fyrir því að handbendi stéttaróvinarins í forystu verkalýðssamtakanna fái reisupassana og að stéttarfélögin verði endurreist sem raunveruleg baráttutæki verkalýðs! Berjast fyrir því að skapaður verði raunverulegur verkalýðsflokkur á Íslandi, marx-lenínískur kommúnistaflokkur, sem leiði verkalýðsbaráttuna í stóru og smáu og sem leiði baráttuna fyrir sjálfu afnámi auðvaldsskipulagsins og uppbyggingu sósíalisma á Íslandi.

## Fundur hjúkrunarfræðinga:

# Svik forystunnar innsigluð

Þann 6. nóvember hélt Hjúkrunarfélag Íslands fund um nýgerða kjarasamninga. Mæting á fundinn var góð, en baráttuandi fundarmanna ekki að sama skapi. Litlar sem engar umræður fóru fram, hins vegar var mikið um ræðuhöld fulltrúa hjúkrunarfræðingar úr samninganefndinni, langlokukenndar upptuggur á hverju smáatriði kjarasamninganna þannig að ómögulegt var fyrir fundarmenn að gera sér grein fyrir því mikilvægasta, þ.e. takmörkun verkfalls- og endurskoðunarréttar á samningstímanum og svik forystunnar við kjarakröfur BSRB. En hver er ástæða deyfðar hjúkrunarfræðinga? Hvað er orðið af baráttuandanum síðan í vor?

Forysta hjúkrunarfélagsins, dyggur leppur BSRB forystunnar, sveik baráttuna þá...og nú sveik hún aftur með miklum glæsibrag og rauða frasa á vörunum - þeir kosta ekki neitt.

Á fundinum lagði Valgerður Jónsdóttir, formaður Hjúkrunarfélagsins áherslu á að það sem við náðum ekki nú, getum við náð 1979, (berjumst með því að bíða og vona! ). Til að vera ennþá róttækari bætti hún við: Það hefði ekki verið hægt að ná meiru fram með þessa ríkisstjórn við samningaborðið (látum óánægjuna í kjörkassana).

Hjúkrunarfræðingar! Með dauðum baráttuaðferðum forystunnar næst engu betri árangur 1979 - það skiptir engu þótt þá sitji vinstri stjórn við samningaborðið. Eina leiðin er að efla andstöðu gegn núverandi forystu, stofna andstöðulið til baráttu gegn stéttasamvinnunni.

Verkalýðsfréttaritari.